# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, NÓVEMBER 1903. NR. 9.


## Sálmr

**út af Matt. 10, 40—52—eftir séra Valdemar Briem.**

(Lag: Sjá, brúðguminn nálgast,)

1. Ef umkomulausum þú viðtökur veitir
og volaða' og hrasaða tekur að þér,
við þurfandi mann ef sem bróður þú breytir
og bágstöddum aðstoð og liðsinni tér,
þá gjörir þú meira,
þá fremr þú fleira:
Þér finnst að eins hjálp þína fáráðr hljóti,
en frelsara þínum þú tekr á móti.

2. Ef frelsara þínum þú viðtökur veitir,
ef verðskuldun Jesú þér tileinkar þú,
ef hans eftir dœmi þú blessuðu breytir
og boðum hans hlýðir í auðmýkt og trú,
þá gjörir þú meira,
þá fremr þú fleira:
Þú trúir, að Jesús einn tryggð þína hljóti,
en tekr þó skapara þínum á móti.

3. Ef skapara þínum þú viðtökur veitir
og vonar og treystir í auðmýkt á hann,
ef hans eftir lögum þú heilögum breytir
og himneskan elskar þú föðurinn þann,
þá meira þú vinnr,
þú fleira þá finnr:

Þinn kærleika skaparinn hyggrðu' að hljóti,
en hann þér í kærleika tekr á móti.

4. Ef öðrum með kærleik þú viðtökur veitir,
þú viðtökur sjálfr í guðs ríki fær.
Hve dýrðlega guð þá við börnin sín breytir:
Þeim búin er veizla svo fögr og skær.
Þá umbun þú hlýtr
og ástverka nýtr.
Hver vatnsdrykkr kaldr af kærleika veittr
í kostulegt gleðinnar vín er þá breyttr.

## Heimilið.

Eftir séra Rúnólt Marteinsson.

Heimilið er undirstaða þjóðfélagsins. Vér skulum hugsa oss fjall. Á því eru margar uppsprettu-lindir, og úr þeim renna lækir, er að síðustu sameinast og verða að stóru fljóti. Heimilin eru fyrir þjóðina það, sem uppspretturnar eru fyrir fljótið, einmitt slíkar uppsprettur. Þaðan koma ekki að eins atkvæðin, sem stjórna þjóðinni, heldr og mennirnir, sem leiða hana. Auðvitað er það fleira en heimilið, sem hefir átt þátt í þroska þeirra, en það hafði fyrsta tækifærið; þaðan komu fyrstu áhrifin; þar var hinn ungi maðr fyrst mótaðr; þar fengu hinir andlegu hæfileikar hans sína fyrstu æfingu og sinn fyrsta þroska; þar voru honum að mörgu leyti lögð upp í hendrnar aðal-vopnin, sem hann beitir í baráttu lífsins. Hve áríðanda þá fyrir hverja þjóð, að heimili hennar sé helgir reitir, þar sem óhollir lífsstraumar ná ekki að koma inn. Leiðtogar hverrar þjóðar ætti að minnast þess ætíð, hve þýðingarmikill hluti af þjóðlífinu heimilislífið er, og hve mikil skylda hvílir á þeim, að vaka yfir heill hennar í þessu tilliti.

Heimilið á að vera jarðnesk mynd af eilífri sælu. Þegar reynt er til þess að lýsa fyrir mönnum ástandi hins andlega heims, hvort heldr í biblíunni eða annarsstaðar, þá eru vanalegast viðhöfð líkingarmáls-orðatiltæki, sem tekin eru út úr lífi mannanna, hinu jarðneska. Þetta hlýtr svo að vera, því

þroskaleið mannanna í þekkingarlegu tilliti hlýtr að liggja frá hinu þekkta til hins óþekkta. Þegar því mennirnir lýsa eilífri sælu, er vanalegast að tala um hana sem guðsþjónustu eða heimili. Vér mennirnir hljótum því að hugsa um framtíðina eilífu sem heimili, — heimili, sem er laust við ófullkomleika þá, er loða við hin jarðnesku heimili vor, — heimili, sem fullnœgja hinum œðstu hugsjónum vorum í sambandi við líf vort og bústað. En það, að hinni eilífu tilveru vorri er líkt við hin jarðnesku heimili vor, ætti að kenna oss að sjá, hve dýrðlegt hlutskifti það er að eiga heimili. Það ætti að vekja hjá oss hina dýpstu löngun til að hlynna að heimilum vorum og gjöra þau að œskilegum bústað. Það ætti að knýja oss áfram til þess að láta þau eignast sem mest af því, sem oss finnst hljóti að einkenna sælubústaðinn eilífa. Þegar vér hugsum um heimili vor sem þá mynd, auðvitað háða mannlegum ófullkomleika, er vér sköpum oss af framtíðinni eilífu, þá renna þau upp fyrir oss í nýju og dýrðlegu ljósi.

Góð húsakynni eru eitt mikilsvert atriði í sambandi við heimilið. Góð húsakynni eru ekki að eins hin skrautlegu híbýli auðmannanna, heldr og öll þau, sem vel samsvara þeim tilgangi sínum, að skýla mönnum fyrir óþægilegum áhrifum veðráttunnar, en veita mönnum þó nóg loft og nóga birtu. Að þau sé skrautleg er lítilsvirði; að þau sé hlý, hentug og hrein er miklu meira virði. Smekkleg og þægileg húsakynni hafa að sjálfsögðu einhver áhrif á jafnvel andlega lífið á heimilinu. Stundum er litið svo á, að húsakynnin sé aðal-atriðið í sambandi við heimilin, en því fer mjög fjarri, að svo sé. Margt afdalahreysið er sannara heimili en sumar konungshallir. Það var einu sinni sagt um Mark Hopkins, frægan kennara í austrhluta Bandaríkjanna, að þar sem hann væri, þó það væri úti í skógi á bjálka, ef að eins væri lærisveinn á hinum enda bjálkans, þar væri háskóli. Eitthvað svipað þessu má segja um heimilið. Þar sem kærleiki drottins samtengir hjörtu heimilisfólksins, þar er heimili, þótt húsakynnin sé að eins lélegt hreysi, eða þótt húsgólfið sé að eins græn jörðin og veggirnir og þakið hinn heiði himinn.

Á heimilinu þarf að vera andlegt líf.

Er heimilið að eins vinnustofa? Er heimilið að eins nokkurskonar verksmiðja, þar sem búinn er til matr og unnið og stritað við hitt og annað? Fjarri sé það oss að draga nokkuð úr þeim dugnaði, sem hefir einkennt fólk vort í þessari heimsálfu; en hófs verðr að gæta í öllu.

Vér Íslendingar, sem komum til þessa lands félausir, höfum að sjálfsögðu átt í all-hörðu stríði með að koma fyrir oss fótunum og verða sjálfstœðir menn í efnalegu tilliti. Þetta hefir útheimt atorku, sparsemi og hyggindi. Það hefir tekið upp huga fjölda manna svo algjörlega, að þeir hafa helzt ekki getað um neitt œðra hugsað en hversdags-starf sitt, og svo hafa heimilin orðið að eintómum vinnustofum; — eintóm vinna frá því snemma á morgnana og þangað til seint á kvöldin dag eftir dag og ár eftir ár. Jafnvel sunnudagrinn sem andlegr dagr og hvíldardagr hefir fyrir mörgum algjörlega horfið; allir dagar hafa orðið jafnir, og allt árið orðið vinna, matr og svefn. Þegar svo er komið, er ekki um mikið andlegt líf að tala; og þegar menn eru einu sinni búnir að venja sig á þetta líf, lítr út fyrir, að mönnum veitist mjög ervitt að hefja sig upp yfir það. Þótt efnin sé orðin nóg og nóg tœkifœri til að njóta einhvers andlegs lífs, finnst þeim, að þeir hafi aldrei tíma; þó kirkjan standi þeim opin og sunnudagr sé kominn, láta þeir sér ekki detta í hug, að fara neitt öðruvísi að en hina dagana, — fara blátt áfram að vinna, vinna eitthvað, eitthvað annað en að fara í guðs hús.

Vellíðan er orðin nokkuð almenn meðal Íslendinga í þessari heimsálfu; og þótt þessu ástandi hafi verið nokkur bót mælandi í liðinni tíð, þá er þó nú ekki lengr ástæða til að afsaka það. Það er líka hinn aumasti hugarburðr, að það sé gróði fyrir nokkurn mann, jafnvel í veraldlegu tilliti, að neita sér um hœfilegar hvíldarstundir og andlega nautn. Að veita sér það er einmitt ráðið til að viðhalda fjöri og starfsþreki sínu. Að neita sér um það verðr til þess að draga úr manni þrótt og kjark, miðar að því að draga mann niðr í dýraríkið.

Á heimilið að vera eintóm vinnustofa? Nei! Til þess það geti með réttu heitið heimili á þar að vera andlegt líf, það er að segja h u g s u n. Þar á að vera fólk, sem hugsar,

og þeir, sem heimilum stýra, eiga að gjöra sér far um, að láta þau ekki vera hugsanasnauð. En til þess heimilinu verði haldið í réttu horfi, að því er það snertir, þurfa þar að vera góð blöð og bækr. Það stendr eðlilega ekki á sama, hvernig þær hugmyndir eru, sem berast inn á heimilin. Það þurfa að vera hreinir og hressandi andlegir straumar, sem þangað berast, en ekki þeir, sem eru óhreinir eða eitraðir.

Inn á sum heimili vor hafa borizt blöð og bækr á ensku máli, sem eru mjög fjarri því að geta orðið til uppbyggingar. Það eru til útgáfustofnanir, sem hafa það fyrir atvinnu að gefa út á prent það, sem svalar lægstu fýsnum mannsins, og svo er þetta skarn útbreitt af öllum mætti, og það er vanalega selt svo lágu verði, að menn eru ginntir til að kaupa það að eins fyrir þá sök. Menn gá ekki að því, að það, sem saurgar sálina, er of dýrt, hversu lágt sem verðið er. Þessi blöð eru prentuð á ljótasta pappír; í þau er hlaðið viðbjóðslegum auglýsingum, og efnið yfir höfuð auðvirðilegt ástarugl og hryðjuverkasögur. Það væri þakkarvert, ef allt, sem til er af ógöfugum bókmenntum á heimilum vorum, væri brennt á báli.

Fólk vort þarf ekki heldr að seilast eftir þessu rusli af því það sé ódýrt, því að mikið af göfugustu bókmenntum heimsins er til á ensku máli í mjög ódýrum útgáfum. Og vitanlega megum vér ekki ganga fram hjá því, sem gott er í bókmenntum vorrar eigin þjóðar.

Það eru til mörg heimili, sem ekki geta lagt út í þann kostnað, að safna að sér miklu af blöðum og bókum. Það er ekki heldr eins áríðanda, að slíkr forði sé mikill að vöxtum, eins og hitt, að hann sé góðr. Það, sem berst inn á heimilin af blöðum og bókum þarf endilega að hafa inni að halda holla andlega fæðu. Þegar menn eru í vafa um, hvað velja skuli, er vissulega ekki úr vegi fyrir þá að leita sér ráða hjá þeim, sem líklegastir eru til að geta í þessu tilliti gefið góðar og heilsusamlegar bendingar, svo á heimilinu geti verið uppbyggilegt hugsanalíf.

Á heimilinu þarf að vera trúarlíf.

Þar, sem heimilið er án trúarlífs, þar er skortr á því,

sem leiðir þangað inn beztan lífsyl; þar vantar uppsprettu hins góða, sem þar á fram að fara. Það er hœgt að hugsa sér trúarlaus heimili að mörgu leyti fögr, en það vantar eitthvað svo undr-mikið í þá fegrð. Það er líka fegrð í hríminu, sem þekr greinar trjánna stundum á vetrinn; en hún er nokkuð kuldaleg, sú fegrð. Hún er eitthvað unaðslegri, fegrðin þeirra, þegar lífsaflið hefir unnið sigr á vorin og þau hafa íklæðzt sumarskrúða sínum. Vér skulum hugsa oss blóm, tilbúin af list mannanna. Þó oss finnist þau fögr, hve miklu fegri myndi oss sýnast þau, ef þau allt í einu fengi lífsafl og fœri að vaxa eins og blómin á jörðinni. Það yrði eitthvað svipuð breyting, sem kœmi fram á fögru heiðnu heimili við það að kristindómrinn fengi þar inngöngu.

(Meira.)

---

# Hvað er biblíu-,kritík'?

**Eftir C. Asschenfeldt Hansen.**

## I.

### HVAÐ ER BIBLÍU-,KRITÍK' EKKI?

Já, á því verðum vér að byrja. Því í þessu máli er það í mesta máta áríðanda, að menn gjöri sér hugmyndirnar ljósar. Með skýrum og ákveðnum orðum skal það þá tekið fram: Biblíu-,kritík' er ekki sama sem biblíu-rannsókn. Sú biblíu-rannsókn er til, sem söfnuðrinn hlýtr að vera þakklátr fyrir, það er að segja: það þjónustu-starf, sem hin trúaða guðfrœði tekr sér fyrir hendr í því skyni að leiðbeina mönnum til rétts skilnings á hinni dýrmætu biblíu vorri. Það starf er fyrst og fremst fólgið í því að veita mönnum aðgang að frumtextanum svo nákvæmum og réttum sem unnt er. Því á fyrri öldum, þegar hinar helgu ritningar gengu frá einni kynslóð til annarrar í eftirritum, gátu sökum ófullkomleika þeirra manna, sem tóku slík eftirrit, slœðzt inn í textann smávegis breytingar frá því, sem upphaflega stóð þar, án þess þó að þau afbrigði raski efninu í neinu verulegu. Hins vegar er heilög ritning svo frábærlega mikils virði, að

jafnvel minnstu smámunir geta varðað nokkru. Enn fremr getr þessi biblíu-rannsókn stutt að því, að ýms ónákvæmni, sem getr verið í þýðingum frumtextans, komi í ljós. Hún getr orðið til skýringar ýmsu því, er snertir sögu og fornfræði. Og sömuleiðis getr hún hjálpað oss til að bera saman þær ýmiskonar frásagnir, sem vér höfum eftir ýmsa rithöfunda, um sama efni, og gjöra tilraun til úrlausnar á því, sem ef til vill við slíkan samanburð kann að virðast benda til mótsagna. Þannig höfum vér vitanlega, að því er gamla testamentið snertir, ýmislegar frásagnir um sömu menn og tímabil í sögu hins helga lýðs í Konungabókunum og Kronikubókunum og sömuleiðis í ritum spámannanna. Og í nýja testamentinu höfum vér frásagnir hinna fjögra guðspjallamanna um dvöl frelsarans vor á meðal á holdsvistardögum hans.

Biblíu-rannsóknin sýnir oss, að frásagnirnar hljóða ekki ávallt eins, heldr eru stundum talsvert ólíkar hver annarri. Allt þetta er þó ekki biblíu-,kritík'. Og myndi lang-flestir af leikmönnum vorum nokkuð amast við slíkri biblíu-rannsókn, er þeir sjá, að þar ræðr sá andi, sem stendr í þjónustu guðs orðs og ber djúpa og kærleiksríka lotning fyrir heilagri ritning? Hvort myndi trúað safnaðarfólk hjá oss ekki vita það, að hingað og þangað í textanum getr verið að finna ýmiskonar lesmáta, til orðna fyrir þá sök, að biblían hefir líka sína mannlegu hlið? Myndi það valda nokkrum manni áhyggju, að Matteus t. a. m. dregr oft saman sögumál sitt, þar sem t. a. m. Lúkas eða Markús skýrir nákvæmar frá og getr því um sitthvað, sem ekki er neitt minnzt á hjá Matteusi? Til dœmis má taka söguna um hundraðshöfðingjann, sem beiddist hjálpar Jesú hinum limafallssjúka þjóni sínum til handa. Sú saga stendr í Matteusar guðspjalli í 8. kap. (6.—13. v.). Þar segir svo: „Þegar Jesús kom inn í Kapernaum, kom til hans hundraðshöfðingi nokkur og tók svo til orða: Þjónn minn liggr heima limafallssjúkr" o. s. frv. Aftr á móti skýrir Lúkas þar nákvæmar frá og segir, að þessi koma hundraðshöfðingjans og bœn hans um hjálp hafi verið í því fólgin, að hann — meðan hann sjálfr

hélt sér álengdar — talaði til drottins fyrir munn nokkurra Gyðinga-öldunga, sem hann sendi á fund hans, og síðan, þegar Jesús átti skammt eitt til húss hans, hafi hann til hans sent nokkra vini sína með þeim skilaboðum að ómaka sig ekki fyrir þá sök að hann í auðmýkt sinni taldi sig ómaklegan þess að Jesús sœkti hann heim (Lúk. 7, 1—7). Hvort myndi önnur eins ósamhljóðan í sögum guðspjallamannanna verða mörgum að trúarlegum vandræðum? Annað eins má svo hœglega skilja með dálitlu af góðum vilja. Ellegar þar sem í 20. kap. Matteusar guðspjalls er sagt frá því, að Jesús hafi læknað tvo menn blinda, þegar hann fór út úr Jeríkóborg, en Lúkas hins vegar (í 18. kap.) getr að eins um einn slíkan mann, og segir, að hann hafi læknaðr verið, þegar Jesús fór inn í þá borg, og Markús (í 10. kap.) segir frá Bartímeusi hinum blinda og að Jesús hafi læknað hann í því hann fór út úr bœnum, — þá getr vissulega virzt, að hér sé dálítil ónákvæmni. Allir þessir þrír guðspjallamenn tala hér augsýnilega um sama manninn, Bartímeus. Má vera, að blindr maðr hafi og verið læknaðr af Jesú áðr en hann kom inn í bœinn. (Því það úði og grúði af blindum mönnum í Gyðingalandi á þeirri tíð eins og nú.) Það gat hafa gefið tilefni til þess, að Lúkas skýrði frá lækningunni, sem Bartímeusi veittist, í sambandi við komu Jesú til borgarinnar í staðinn fyrir við burtförina þaðan. Ekki þarf heldr neitt að vera á móti þeirri ætlan, að með Bartímeusi hafi verið annar blindr maðr, þegar Jesús gekk út úr Jeríkó; en sagan hefir þá fest sig við þann af blindu mönnunum, sem meir var þekktr, Bartímeus. En hvernig sem þessu kann nú að vera varið, þá breytir það efni sögunnar alls ekki í neinu verulegu.

Eða þar sem í 28. kap. Matt. guðsp. er sagt, að konurnar á páskadagsmorgun hafi séð einn engil, en í Lúk. guðsp. er getið um tvo, hvort myndi slíkt í raun og veru geta orðið nokkrum manni áhyggjuefni? Fermingarbarn eitt lítið var spurt, hve margir englar hefði verið við gröf Jesú. Það svaraði: „Margir.“ Það var undir eins úrlausn, sem vert var að taka til greina. Á jólanótt birtust margir englar; margir þá vafalaust eins á páskadagsmorgun, og sumar konurnar hafa séð einn, aðrar tvo.

Á allt slíkt bendir biblíu-rannsóknin. En þegar undir eins á á þessu stigi mun einatt á því bera, að þeir, sem eiga við biblíu-rannsókn, koma all-ólíkt fram. Því að sumir koma með bendingar, sem geta hjálpað mönnum til að samríma það, er virðist ósamhljóða, enda getr það oft tekizt án verulegra örðugleika; það eru jafnaðarlega mörg ráð til að leysa úr slíkum mótsögnum, eða því, er þannig lítr út. Aðrir líta aftr á móti svo á, að þeir verði að kannast við allar slíkar mótsagnir sem verulegar skekkjur, sem óhœfilegt sé að reyna til að fœra til sanns vegar. Þar til er því að svara: Hví skyldum vér ekki, svo lengi sem greiða má úr slíkum ósamhljóðunum, viðhafa þá aðferð? Vér erum svo langt burt frá þeim tíma, þá er þetta gjörðist. Það geta hafa verið ýmsar þær ástœður í sambandi við þá atburði, sem vér, er uppi erum svo löngu síðar, með engu móti fáum vitað um og haft oss til leiðbeiningar. Þannig er því einatt varið, þegar um þá hluti er að rœða, sem að tímanum til liggja oss svo miklu nær. Allt í einu kom til vor skýring, sem fullkomlega dugði til þess að greiða úr því, er áðr virtist óviðeiganleg mótsögn. Hví þá að vera svo fljótr til að segja, að sá eða sá hinna helgu rithöfunda hafi sagt rangt frá? Mér geðjast vissulega miklu betr það hugarfar, er birtist oss hjá svo mörgum hinna miklu, kæru biblíuskýrenda, einkum frá fyrri tíðum, sem stöðugt komu með bendingar um það, á hvern hátt greiða mætti úr mótsögnunum.

En vér könnumst við, og hljótum að gjöra það og munum gjöra það, að hin helga ritning vor hefir sína *mannlegu* hlið. Ritningin er *guðmannleg* bók. Það er guð, sem þar talar til vor, en *í gegn um menn*. Eftir því má taka, að vitnisburðrinn er borinn fram á mismunanda *hátt*, en andinn er hinn sami. Hina mannlegu hlið ritningarinnar má og þekkja á því, að þeir, sem voru raddir drottins, þekktu þó ekki allt, heldr eins og Páll segir, að eins „það, sem oss er veitt af guði“ (1. Kor. 2, 12).*) Enn fremr tekr Páll það fram, að vér þekkjum enn að eins „að nokkru leyti“ (1. Kor.

*) Í nýja testamentinu íslenzka er þetta öðru vísi. Vafasamt, hvor þýðing orðanna er réttari.

13, 12). Og að því er snerti allt það, er eingöngu var tímanlegt, voru vottar drottins háðir sömu takmörkunum eins og vér allir hinir. Þess vegna ritar Páll (1. Kor. 1, 16) til safnaðarins í Korinþuborg, að hann viti ekki**), hvort hann hafi skírt fleiri en þá, er hann þar nefnir. Þess vegna urðu líka hinir helgu rithöfundar, sem fœrt hafa í letr hina helgu sögu fyrir oss, sjálfir kostgæfilega að ,,rannsaka'' það allt, sem þeir fyrir mannlegan stuðning gátu fengið upplýsing um. Þannig ritar Lúkas í upphafi guðspjalls síns (1, 3), að hann hafi rannsakað öll þau efni frá rótum til þess hann geti skrásett þau í röð. Heimildarrit hafa hinir helgu rithöfundar og stundum notað ýmsu viðvíkjandi í gamla testamentinu; en þau rit hafa þá einnig verið heilög, og undir leiðslu heilags anda hafa þeir notað þau.

Allt þetta er hinn mannlega hlið á ritningunni. En þetta er ekki biblíu-,kritík'. Höldum því fyrir hvern mun föstu. Því eins og vér munum sjá af því, er hér fer á eftir, rekum vér oss á það marg-oft, að talsmenn ,kritíkarinnar'gjöra sér far um að telja mönnum trú um, að vér, mótstöðumenn þeirra, séum andvígir allri biblíu-rannsókn. Þetta hefir í för með sér mikinn rugling, og það viljum vér nú gjöra ljóst í næsta þætti.

## II.

### UM HVAÐ ER BARIZT?

Að ýmsir trúaðir leikmenn meðal vor hafa orðið hræddir við það, sem vér í þættinum hér á undan höfum nefnt biblíurannsókn, það er í rauninni ekki svo undarlegt, þegar um það er hugsað, hvernig margir af talsmönnum bibl u-,kritíkarinnar' hafa viljað nota sér sérhverja samsinning þess, að ritningin hafi sína mannlegu hlið, til þess að opna dyrnar og smeygja þar inn þeim ógeðslega fleyg, sem hin eiginlega biblíu-'kritík' er í eðli sínu. Það er mjög skiljanlegt, að leikmenn, sem vænt þótti um biblíuna sína, þegar þeir tóku eftir því, að verið var að umsnúa henni algjörlega, sérstaklega gamla testamentinu, hafi látið leiðast of langt í gagnstœða átt

**) Þetta er nákvæmara en í íslenzka nýja testamentinu.

og ekki þorað að kannast við, að biblían hefir einnig mannlega hlið. Menn tóku eftir því, að til voru svo nefnd biblíuvísindi, sem fóru langt út fyrir takmörk sín, ekki vildu láta sér nægja að ,,slétta úr hrukkunum á kápu biblíunnar"— eins og V. J. Hoff prestr komst að orði í hjartnæmu erindi nokkru, sem hann flutti um þetta mál; og svo voru ef til vill sumir, sem settu landamerkja-stikurnar of innarlega. En lang-flestum hinna trúuðu vina drottins meðal leikmannalýðsins skilst það hæglega, að það, sem á hefir verið bent biblíu-rannsókn viðvíkjanda í fyrsta þætti ritgjörðar þessarar, þarf alls ekki neitt að óttast. Nei, um það er alls ekki að ræða hér, þegar vér stöndum gagnvart biblíu-,kritík' þeirri, er nú tíðkast. Sú biblíu-rannsókn, sem hlustar á hið drottinlega orð: ,,Drag skó þína af fótum þér, því staðr sá, sem þú stendr á, er heilög jörð", mun ávallt gæta þess að halda sér innan hinna réttu takmarka.

En hvað eigum vér að segja, þegar þeir, sem verja vilja biblíu-,kritíkina' nýju, eru sí og æ að halda því fram, að deilan snerti að eins smámuni, bera það fyrir sig, að ,kritík' sú sé ekki annað en friðsamleg biblíu-rannsókn, og færa þannig í raun og veru landamerkjalínuna út og varpa með því svo að kalla dularhjúpi yfir hinn glepsanda úlf? Nei, höldum þó augum vorum opnum, að vér ekki köstum sauðaklæðum þjónustusamrar og hógværrar biblíu-rannsóknar yfir úlf biblíu-,kritíkarinnar' og gjörumst meðsekir í því, að úlfrinn læðist inn fyrir hin helgu vébönd, inn í hjörð drottins.

Á reformazíónar-hátíðinni 15. Nóv. 1894 hélt prófessor P. Madsen ræðu um biblíu-,kritíkina', sem hið bráðasta var sterklega mótmælt bæði af Vilhelm Beck í blaðinu ,,Annexet" og í ,,Dansk Kirketidende", fyrst af útgefandanum, en síðan einkum af V. J. Hoff presti. Einmitt hið friðanda í ummælum Madsens um biblíu-,kritíkina' var það, sem gjörði vini biblíunnar áhyggjufulla. Út af hinni persónulegu afstöðu háskólakennarans við biblíuna vildu menn ekki gjöra honum neinar árásir, en það, hvernig hann gjörði grein fyrir biblíu-'kritíkinni', var með réttu hiklaust talið stórkostlega villanda. Og í ýmsum ritgjörðum var sýnt fram á það, að

biblíu-'kritíkin', eins og hún væri í reyndinni, hefði langt um hættulegra útlit en virðast mátti eftir því, hvernig prófessor Madsen hafði lýst henni. Það var sýnt fram á, að hún væri úlfr, en alls ekki nein friðsamleg vera, sem að eins hefði góðan tilgang.

Nokkurn veginn í sömu áttina eins og ræða próf. Madsens fer smáritlingr einn, sem Koch biskup í Rípum hefir gefið út. Einnig þar er talað á friðanda hátt, eins og engin hætta sé á ferðinni. Reyndar getr Koch þess með fáeinum orðum (á bls. 41–42), að því hafi „verið veitt eftirtekt, að ískaldr gustr sé kominn samfara rannsóknum gamla testamentisins." „Því verðr ekki neitað '—segir hann—, „að vantrúin hefir oft tekið verk þetta í þjónustu sína — —." Og „menn hljóta að kannast við, að vantrúin andspænis því, sem yfirnáttúrlegt er í biblíunni, hvatti verk þetta fram, svo ekki þurfti annað til þess að þeir, sem við það voru að eiga, efuðust um þá eða þá frásögu í gamla testamentinu en það, að sú saga hefði eitthvað yfirnáttúrlegt inni að halda."

Þetta er þá í rauninni allt, sem Koch biskup kemr með í ritlingi sínum um biblíu-'kritíkina' til bendingar um h æ t t u r þær, sem henni sé samfara. Það er mjög veikr blettr, þetta í ritgjörð hans, svo veikr, að ervitt veitir að afsaka það hjá manni með annarri eins þekking og Koch biskup hefir til að bera. Eg leyfi mér jafnvel að halda því fram, að þeim ískalda gusti „hefir verið veitt eftirtekt", og að „því verðr ekki neitað", að vantrúin hefir dyggilega tekið þetta verk í þjónustu sína! Hví fáum vér ekki í ritgjörð, sem hljóðar um biblíu-'kritíkina', meira að heyra til viðvörunar með tilliti til byltingarstarfs þess, sem sú vantrú með hennar ískalda gusti hefir komið til leiðar? Hví er þessi úlfr vantrúarinnar ekki langt um öðruvísi afhjúpaðr, svo að guðs börn fái lært að varast hann og þekkja hann? Í þess stað er leikmannalýðrinn margvíslega varaðr við því að ónáða biblíu-'kritíkina' í starfi hennar. Menn hljóta að leiða þá ályktan af ritlingi Kochs biskups, að fjöldi presta og leikmanna sé andstæðr allri biblíurannsókn, og þar tekst biskupinum auðvitað hæglega að verða ofan á, þegar hann er að sanna oss það, að biblíu-rannsókn

sé nauðsynleg. Vér höfum í fyrsta þætti ritgjörðar þessarar sýnt, að vér erum honum sammála um það, að biblíu-rannsókn sú, sem unnið er að í auðmjúkum anda, á fullan rétt á sér, svo framarlega sem hún að eins heldr sér innan hennar rétta takmarka. En með þessum ummælum sínum setr hann það mark á marga trúaða presta, sem bendir til þess, að þeir breyti eiginlega á móti samvizku sinni, gegn betri vitund.

Þar til svörum vér eins og Vilhelm Beck eitt sinn í Betesda, þegar komið var með það, út af árásum hans á sundrtæting ritningarinnar af völdum biblíu-'kritíkarinnar', að smávegis mótsagnir væri þó að finna í biblíunni hingað og þangað: „Það er alls ekki það, sem um er barizt!“ Nei, biblíu-'kritíkin' eins og hún birtist á vorri tíð gengr langt um lengra en biblíu-rannsókn. Vér munum brátt sjá, hvernig hún hefir langa leið farið út fyrir takmörk sín. Um það er barizt. Látum oss fyrir hvern mun berjast innan hinna réttu endimarka, svo að úr baráttunni verði ekki tóm vindhögg.

Í vikublaði því, er nefnist „Kirken og Hjemmet“ og kemr út undir ritstjórn prestsins Martensens Larsens, var nýlega rœtt um biblíu-'kritíkina' og missíónar-skólann í Óðinsvé. Þar koma fyrir ummæli nokkur, er snerta þetta efni og miða að því að koma baráttunni út fyrir hin eiginlegu takmörk hennar. Þau ummæli eru með því ógeðfelldasta—svo eg viðhafi mjög vægt orð—, sem nokkursstaðar hefir fyrir mér orðið í þá átt. Hann fyrirverðr sig þar ekki fyrir að saka stóran hóp presta um það, að þeir vllji láta hina ungu menn, sem eru að búa sig undir missíónar-starfið, ganga með augnablöðkum, eins og hesta, svo þeir ekki fælist,—ber oss það á brýn, að vér segjum ekki hreinskilnislega það, sem oss býr í brjósti, að vér af ásettu ráði höfum þagað og látum svo leikmannalýðinn hníga í dýpri og dýpri svika-svefnværð.“ Hann sakar oss um takmarkalausan vesaldóm, þar sem vér, eftir því sem hann kemst að orði, teljum það „fyrsta ætlunarverk vort að innvinna oss traust leikmanna—með því að styggja þá ekki,“ og annað ætlunarverk vort að varðveita þetta traust—með því að ganga ekki á móti því.“ Hr. M. Larsen svífist þannig ekki að saka oss um slíkt samvizkuleysi, að þvert á móti

sannfœring vorri styðjum vér aftrhaldið, þegar við því getr verið að búast, að vér bíðum eitthvert tjón við að halda sannfœring vorri á lofti, svo sem það að hníga í áliti almennings. Þetta eru mjög ljót ummæli, og væntanlega hefir hr. M. L. ekki gjört sér ljóst, hve langt þau ná. En líka honum tekst hœglega í yfirlæti sínu að hrósa sigri með því—líklega af því að hann veit ekki, hvernig á stendr—að snúa baráttunni inn á annarlegt, öfugt svæði, eins og nokkur gæti haft nokkuð á móti því, að þeir, sem eru að búa sig undir missíónar-starf, fái að vita, að ritningin hefir sína mannlegu hlið. Oss skilst það svo vel, sem Koch biskup tekr fram á einum stað í ritlingi sínum. Þegar hann spurði missíónar-lærisveininn, hvort nýja testamentið hefði vaxið eða minnkað í augum hans (út af 'kritíkinni'), þá segir hann, að hann hafi svarað: „Það hefir vaxið,—það get eg sagt með þakklæti til guðs.“ En myndi svarið ekki hafa orðið annað, ef missíónar-lærisveininum hefði verið gjörð kunnug hin svo kallaða niðrstaða hinnar eiginlegu biblíu-'kritíkar' og hann jafnframt um það frœddr, að það allt væri full-sannað—t. a. m. að því er snertir Móses-bœkrnar, Sálmana, bœkr Jónasar og Daníels o. s. frv.? Hvort myndi lærisveinninn líka þá hafa svarað: „Í þessu ljósi verðr gamla testamentið mér miklu meira virði en áðr.“—?

Látum oss þó loksins koma baráttunni inn á hennar rétta svæði og virða fyrir oss biblíu-'kritíkina' eins og hún er í reyndinni, eins og hún greinilega birtir sinn rétta andlitssvip. Það skulum vér nú gjöra í næsta þætti, og síðan aftr íhuga þá spurning, hvort söfnuðr guðs á í raun og veru að bjóða hana velkomna, hvort vér í raun og veru eigum að beygja oss lotningarfyllst fyrir slíkum „vísindum“, hvort biblían (hér er fyrst og fremst um gamla testamentið að rœða) getr í raun og veru haldið dýrð sinni óskertri og verðmæti hennar vaxið í augum hjartanlegrar trúar fyrir það, sem 'kritíkin' er við hana að gjöra.

---

Lauslega hefir þess verið gefið eitt sinn í blaði þessu, að á afar fjölmennum fundi Heimatrúboðsmanna, þeim er haldinn var í Kaupmannahöfn í Ágúst 1901, hafi ályktað verið að

mynda félag fyrir Norðrlönd með því markmiði að vinna á móti biblíu-'kritíkinni'. Réttu ári síðar var félagskapr sá fullmyndaðr. Nafn þess félagskapar er „Nordisk Bibelforening" (Biblíu-bandalag Norðrlanda). Félagið er í þrem deildum; ein þeirra í Danmörk, önnur í Norvegi, þriðja í Svíþjóð. Hver um sig af deildunum hefir yfir sér sjö manna stjórnarnefnd. En í yfirstjórn hinna sameinuðu deilda eru níu menn, þrír úr hverri deildarnefndinni. Biblíu-bandalag þetta vill vinna að tilgangi sínum meðal annars og ekki sízt með því að gefa út alþýðleg smárit. Einn slíkr ritlingr er sá, er nefnist *Hvad er Bibelkritik?* (Hvað er biblíu-'kritík!'?) eftir núveranda formann dönsku deildarinnar, C. Asschenfeldt Hansen, prest í Slemminge á Lálandi. Oss hefir þótt við eiga að snúa þeirri ritgjörð allri á íslenzku og láta þá þýðing koma út í „Sameiningunni". Upphafið birtist í þessu blaði. —Lesendr vorir geta nú séð, hvort ofsögum hefir verið sagt í „Sam." af mótspyrnunni gegn biblíu-'kritíkinni' af hálfu trúaðra guðfrœðinga og leikmanna í hinum lútersku löndum; og er þeir hafa lesið ritgjörð þessa til enda, mun þeim verða ljóst, hve hrœðilega mikið er í húfi, ef hinar nýju kenningar um biblíuna skyldi verða ofan á í kirkju vorri. Hér sést og, hvaðan andstœðingum vorum á Íslandi í ágreiningsmálinu út af 'kritíkinni' er komið orðalag það hið einkennilega, sem þeir viðhafa í deilugreinum sínum gegn oss.

---

Nýkomin er og út í Philadelphia (frá General Council Lutheran Publication House) bók ein all-stór á ensku um sama efni—*Biblical Criticism*—eftir John A. W. Haas, doktor í guðfrœði og prest í New York, með löngum formála eftir dr. H. E. Jakobs, forstöðumann hins lúterska prestaskóla í Philadelphia. Þeir, sem nokkuð eru kunnugir General Council, rétttrúnaðarstefnu þess göfuga lúterska kirkjufélags, geta ímyndað sér, hvernig í þessari nýju bók muni vera tekið í strenginn viðvíkjanda hinu mikla deilumáli. En bókin er ekki við alþýðu-hœfi, enda beinlínis ætluð prestum og þeim öðrum, er notið hafa guðfrœðilegrar menntunar. Seinasta orðið í bókinni er þetta frá Páli postula í bréfi hans til

Kólossa-manna (2, 8): ,,Varizt, að nokkur hertaki yðr með heimspeki og hégómlegri villu, eftir manna-setningum, eftir stafrófi heimsins, en ekki eftir Kristi.''

---

Dr. Weidner, forstöðumaðr hins lúterska prestaskóla í Chicago, er óþreytandi í því að gefa út guðfræðisrit. Seinasta bókin hans er *Ecclesiologia* or the Doctrine of the Church (Lærdómrinn um kirkjuna), alveg nýkomin út (frá Fleming H. Revell Co., Chicago &c.). Eins og önnur rit hans er þetta beinlínis ætlað guðfræðisnemendum, en það hefir þó inni að halda mikið af ágætum fróðleik, sem menntaðir leikmenn geta vel notað sér. Bókin greiðir vel úr hinum margbreytilegu og oft flóknu kenningum guðfræðinganna um kirkjuna. Eftir að fólk vort er farið að eiga heima í sjálfstjórnandi kirkju ríðr því meir en lítið á að fræðast um margt, sem þessi bók hefir meðferðis.

---

Íslenzka nýja testamentið frá brezka biblín-félaginu er enn til sölu hjá ritstjóra ,,Sam.'' Verðið er 60 cts.

---

Nýja testamentið íslenzka með myndunum, sem hr. H. Jones hefir látið gefa út á þessu ári og nýlega hefir verið minnzt á í blaði þessu, mun verða fáanlegt fyrir jólin í bókaverzlan hr. Halldórs Bardals hér í bœnum.

---

Nýhaldnir eru trúarsamtalsfundir í öllum söfnuðunum, sem mynda prestakall séra Björns B. Jónssonar. Þeirra verðr minnzt í næsta blaði ,,Sam.''

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar.''



,,SAMEININGIN'' kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn'' fylgir með ,,Sam.'' í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans'' er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.'': 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—

Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON, PÉTR HJÁLMSSON, WILHELM H. PAULSON, HALLDÓR S. BARDAL.

F